# Verkalýðsblaðið

17. tölublað 9.árg. 17. desember 1980 Verð: kr. 400,-

Tékkó 1968 – Pólland 1981?

## Endurtekur sagan sig?



Lenin, Walesa og fleiri. Pólskum valdhöfum dugir ekki að nota orð Lenins gegn stefnu hans.

Það gerist margt í senn í Póllandi. Sovésk innrás gæti orðið hvenær sem er. Enda þótt staða mála í Póllandi nú sé í mörgu frábrugðin því hvernig mál þróuðust í Tékkóslóvakíu 1968 eru vissulega til mörg atriði sem eru sláandi lík.

Eitt þeirra er sú fjöldahreyfing sem ekki er stjórnað af flokk og ríki. Annað er aðdragandi innrásarinnar í Tékkóslóvakíu 1968 var líkur því sem nú á sér stað í herbúðum Kremlherranna.

### „Vorið" í Prag 1968

"Vorið" í Prag 1968 var raunveruleg fjöldahreyfing, sem bar fram kröfur um aukin lýðréttindi og frelsi. Í Prag var hreyfingunni hrundið af stað af forystumönnum innan flokksins, sem síðan komust til æðstu forystu svo sem Dubcék. Þessi hreyfing var ekki búin til ´68 heldur hafði hún verið bæld og lifað óskipulögð og án eigin stjórnlistar. Í fjöldahreyfingunni í Prag voru verkalýðsfélögin í litlum hlutverkum og andstaðan, sem kröfurnar báru merki um beindist ekki gegn flokknum. Hún var fremur stuðningur við þau öfl í flokknum sem komust til valda 1968 og bar í sér von um betri tíð. Auðvitað brást sú von því flokkurinn var til annars ætlaður en að færa alþýðu manna lýðréttindi. Von alþýðu um að flokkurinn væri það tæki sem það áður hafði treyst var svikin M.a. þetta hefur pólsk alþýða lært af "vorinu" í Prag.

### Gegn flokknum

Þegar pólskur verkalýður reis upp til baráttu 1970 var ekki leitað sátta við flokkinn eða beðið eftir góðvild innan úr röðum hans. Verkafólk tók málin í eigin hendur og skipulagði baráttu gegn flokknum og ríkiskerfi hans. Verkföllin ´70 urðu að slagsmálum og tugir verkamanna létu lífið Skortur á reynslu og "ólöglegri" skipulagningu háði verkalýð í baráttunni ´70.

### Mikilvægur áratugur

S.l. áratugur hefur verið pólskum verkalýð dýrmætur námstími. 1976 kom til átaka og andspyrnan meðal verkalýðs og menntamanna jókst. Eftir átökin ´76 náðu verkamenn og menntamenn saman gegnum nýstofnuð samtök andófsmanna, KOR. Frá þeim tíma tók baráttulist andófsmanna miklum breytingum.

framhald á síðu 7

ASÍ-þing

## Ríkisstjórnarmynstur í miðstjórn



ASÍ hélt þing sitt vikuna 24.-28. nóv. sl. Til þingsins mættu um 45o manns frá 127 félögum Einn þingfulltrúa var Guðmundur Sæmundsson frá Vlf. Einingu á Akureyri, sem vakti nokkra athygli fyrir frumlegar aðferðir við að setja fram gagnrýni sína á stefnu ASÍ, einkum í sambandi við kosningar í trúnaðarstöður. Við náðum tali af Guðmundi, áður en hann hélt aftur norður og báðum hann að svara nokkrum spurningum blaðsins.

-Guðmundur, hverjar telur þú helstu niðurstöður þingsins?

- Þingið samþykkti margar furðu góðar ályktanir, t.d. um kjaramál, tölvumál, lífeyrismál o.fl. Þótt það kæmi hvergi fram beint í samþykktum tel ég niðurstöðu þingsins vera óánægju með forystu ASÍ, bæði hvað varðar stefnu og starfsaðferðir, inn á við og út á við. Síðustu samningar fengu þann einróma dóm að hafa verið slæmir hvað varðar almenn kjör, og félagsmálapakkinn var heldur rýr. Samflotin voru of miðstýrð, upplýsingaleysið um gang mála algjört og ekkert gert til að virkja almenna félagsmenn að baki kröfunum. Um þetta voru allir sammála, sem tóku til máls. Að vísu ber að geta þess að æðstu forystumenn tóku lítinn þátt í umræðum, einkum foringjar Alþýðubandalagsins. Þeir voru uppteknir við að makka um sætin í miðstjórn. Síðasta daginn, eftir að kosningar voru afstaðnar, tóku þó nokkrir þeirra til máls.

- Hvað um úrslit kosninga á þinginu? Hvernig metur þú þær?

- Hér var náttúrulega um algjört og órjúfanlegt kosningahjónaband að ræða á milli íhaldsins og Alþýðubandalags. Frá þessu var búið að ganga fyrir þingið, og allar tilraunir til að rjúfa það mistókust, hvort sem þær voru gerðar frá hægri eða vinstri, ef svo má segja. Framsókn valdi að sætta sig við og styðja þetta bandalag til að halda sínu, en kratar gerðu nokkrar tilraunir til að ná meiru en þeim hafði verið úthlutað af kökunni. Þær mistókust, og sama gildir um tilraunir vinstri sinna á þinginu til að andæfa kosningabandalagi og makki.

- Hverjar voru þessar tilraunir frá vinstri andstöðunni?

- Þær voru svo sem ekki margar. Hluti af samkomulaginu á milli íhalds og Alþýðubandalags var fækkun Alþýðubandalagsmanna í miðstjórn um einn og samsvarandi fjölgun íhaldsmanna. Alþýðubandalagsforingjarnir sáu þarna tækifæri til að losa sig við róttækasta fulltrúa sinn í miðstjórn og einu konuna frá Alþýðubandalaginu, Bjarnfríði Leósdóttur frá Akranesi. Það var stungið upp á henni utan úr sal, en hún náði ekki kosningu, fékk þó um 40% atkvæða. Þá var reynt að rjúfa bandalag íhalds og

framhald á síðu 5

# Réttað í Peking

– Var menningarbyltingin rangt skref?
– Hvernig ber að meta Maó, Deng og fjórmenningana?
– Hvernig ber að líta á réttarhöldin í Peking?

## Góð og vond

Menningarbyltingin átti að koma í veg fyrir að menn sem unnu gegn sósíalisma í Kína, meðvitað eða óafvitandi, næðu of miklum völdum. Margir leiðtogar óttuðust afnám sósíalisma í Kína, líkt og gerðist í Sovétríkjunum. Víst er að hættan var fyrir hendi(og er enn) og aðgerðin heppnaðist að sumu leyti – það sýnir þróun Kína síðan. En margt fór úr böndum. Margir voru rangt metnir sem afturhald, t.d. lægra settir forystumenn og listamenn, en gallar annarra taldir meiri en þeir voru (t.d. Líu Sjaó Sí og Deng). Enn aðrir misstu í raun tök á atburðarásinni, bæði vegna þess að þeir gengu of langt og vegna þess að ýmsir valdamenn misnotuðu sér ástandið og afvegaleiddu fólk. Dæmi um fyrri hópinn eru líklega Maó og Sjú Enlæ, um þann síðari fjórmenningarnir, Lín Bíao og fleiri.

Menningarbyltingin hefur sannarlega tvær hliðar. Í endanlegri "gerð" olli hún verulegu tjóni, en engu að síður þurfti að vinna gegn andstæðingum sósíalismans með fjöldanum. Mat kínverskra yfirvalda nú er of einhliða – séð úr fjarlægðinni héðan – sem fordæming.

## Ábyrgð einstaklingsins

Sem einstaklingur ber Maó ábyrgð á menningarbyltingunni í heild (með öðrum), en ekki nema fáum atburðum í henni. Bendir flest til þess að fáeinir einstaklingar beri miklu meiri ábyrgð á illverkum og ofurróttækni en nokkrir aðrir: Fjórmenningarnir, Lín o.fl. Og sjálfsagt gerði Maó ekki mistök í menningarbyltingunni einni. T.d. hefur hann vanmetið efnahagsmál sósíalismans, en ofmetið hugmyndafræðiþáttinn í uppbyggingu Kína á efri árum sínum. Álit hans rýrnar þó lítið.

## Afbrot eru refsiverð

Kjarninn í stefnu fjórmenninganna og fylgismanna þeirra er ofurróttækni. Hún hefði smám saman fleytt "pólitíkinni langt fram úr fjöldanum" eins og sagt er og rústað efnahag landsins. Þess vegna er stefnan röng og skaðleg. En hana er ekki hægt að dæma í réttarsal. Hún verður aðeins unnin með hugmyndafræðilegri baráttu. Á hinn bóginn þarf réttarkerfi Kína að vera gott og menn jafnir fyrir lögunum. Öll bolabrögð og spellvirki eiga að vera refsiverð, séu þau sönnuð órækum rökum. Í þessu tilliti eru réttarhöldin í Peking réttmæt. Dauðadómar eiga samt ekki að vera refsing fyrir brot þar sem pólitík og glæpir fléttast saman.

erlent viðhorf




Wang Hongwen (t.v.) játaði að hann hefði útbúið fölsk sönnunargögn gegn leiðtogum sem voru andvígir menningarbyltingunni. Ekkja Maós er t.h. (Mynd Xinhua)

## Hlykkjótt þróun

Atburðir í Kína minna okkur bæði á að einstaklingar eru misvitrir og hafa flestir kosti og galla. Því hafa marxistar oft gleymt. Atburðirnir krefjast þess að menn viðurkenni að stéttabaráttan heldur áfram þó samfélaginu sé velt frá kapítalisma til sósíalisma. Og hún tekur á sig margar myndir.

Og helst af öllu minna atburðirnir á að kommúnistar reika mjög til hægri eða vinstri þar sem þeir standa fremstir í baráttu fyrir sósíalismanum. Meðalvegurinn er eðlilega vandfundnastur og verður að taka því. Núna er rétt að vera gagnrýnin á Kína alveg eins og Kína átti miklu meiri gagnrýni skilið í menningarbyltingunni og eftir hana. Það er hlutverk kommúnista að koma gagnrýninni á framfæri.

– agé.

# Hart deilt um varnarmál

Þessa dagana er Þjóðviljinn uppfullur af fréttum um aukinn vígbúnað Bandaríkjanna. Ekki eru þær lognar. En hve alvarleg og hættuleg er ekki þögn Þjóðviljans um vígbúnaðaraukningu Sovétmanna og þá staðreynd að þeir eru að yfirvinna forskot Bandaríkjanna. Morgunblaðinu er látin upplýsingamiðlunin eftir og látið að liggja að þar fari upplognar tölur frá CIA. Hversvegna, Þjóðvilji?



Myndin sýnir sovéska SS 12-kjarnorkueldflaug, sem staðsett er í Kola í nágrenni Noregs og Finnlands.

**Af nógu að taka.**

Því ekki að benda á fjölgun hrað- og langfleygra og mjög fullkominna Backfire-sprengjuvéla á Kolaskaga? Hvað með endurnýjun meðaldrægra kjarnaflauga á Kola? Hvað með fjölgun SS-2o skeyta við evrópsk landamæri eða nýbyggingu sovéskra flotastöðva við Rauðahaf (í Eþíópíu og S-Jemen), sem er helsta flutningaleið olíu til Evrópu? Hvert er mynstrið í útþennslu Sovétríkjanna undanfarin 5 ár?

Sannleikurinn er sá að Þjóðviljinn sér enga ógnun við Ísland frá Sovétríkjunum. Mótherji NATO skiptir ekki máli. Alþýðubandalagið og hinir flokkarnir þrír velta ekki vöngum yfir því hvað Íslendingar sjálfir skuli gera ef til styrjaldar dregur, hvort sem landið er þá aðili að NATO eða ekki.

**Hressilegur fundur.**

Þetta var rækilega staðfest á fundi Kommúnistasamtakanna í Rvk. 2. des. sl. þar sem fulltrúar allra stjórnmálasamtaka leiddu saman hesta sína. M.a. vegna nýhafinna stuðningsaðgerða í máli Gervasoni. Var fundurinn fremur fámennur (rúml.5omanns) en afar líflegur og gagnlegur.

Bragi Guðbrandsson (AB) tróð fornar slóðir og hafnaði landvörnum, hættunni frá Sovétríkjunum og taldi tal um landvarnir geta verið afvegaleiðandi í baráttu fyrir brottför hersins. Árni Hjartarson (Fylk.) tók mjög í sama streng og hæddist að kommúnistum fyrir að fallast í faðma við íhaldið (og Kína).

Átti hann þar við afstöðu Ara T. Guðmundssonar og Þórarins Hjartarsonar (Komm.) sem álíta Sovétríkin líklegan upphafsaðila stríðs og hyggja á árás á Íslandi. Ari vildi úrsögn úr NATO, bæði til að minnka árásarhættu og eins vegna þeirra blekkinga sem hann taldi NATO-varnir vera. Í staðinn lagði hann til alhliða land- og almannavarnir, íslenskar.

Jón Baldvin Hannibalsson (Alfl.) studdi þá félaga að mestu nema hvað hann sagðist enn vera fylgjandi NATO-vörnum, en þó ekki andsnúinn meiri viðbúnaði Íslendinga sjálfra. Jón Sigurðsson (Fra.) og Baldur Guðlaugsson (Sjálf.) töldu engar breytingar þarfar á skipan varnarmála, en stríðshættuna meiri en nokkru sinni, sérstaklega að austan. Þeir treystu NATO og sagði Baldur að til væru hermenn einhvers staðar í Bandaríkjunum sem koma ættu hingað í styrjöld.

Fundurinn sýndi að nóg er komið af þögn um allar aðrar hliðar öryggismála en frasana einföldu: Í eða úr NATO og með eða á móti herstöðvum NATO.

Miklar og skjótar umræður, stefnumótun og framkvæmdir geta skipt sköpum í íslenskri sögu. Árið 1939 tók Alþingi ákvörðun um smávægilegar ráðstafanir vegna stríðshættu einum degi fyrir upphaf styrjaldarinnar. Slík fíflska má ekki endurtaka sig.

– agé.

# Verkalýðsblaðið

Útgefandi: Kommúnistasamtökin
Ritstjóri: Ómar Harðarson (ábm)
Aðsetur: Frakkastígur 14 (í húsnæði Októberbúðar)
Opnunartími: kl. 16.00 - 18.00 þriðjudaga til föstudaga.
Sími: 29212
Pósthólf: 5186 125 Reykjavík
Gírónr.: 12200-9
Prentað í prentsmiðju blaðsins


# Gervilýðræði eða..?

Svavar Gestsson lét þau orð falla eftir landsfund Alþýðubandalagsins að flokkurinn væri bæði einhuga og lýðræðislegur. Ekki er að efa að margur AB-maðurinn er sömu skoðunar. En skyldi AB vera samhentari en t.d. Framsókn eða lýðræðislegri en Alþýðuflokkurinn?

Alþýðubandalagið er vafalítið ágætlega starfhæft sem þingræðisflokkur og umbótasamtök, en skarar varla fram úr keppinautum sínum, nema þá helst Sjálfstæðisflokki nú um hríð. Raunverulegur verkalýðsflokkur verður aftur á móti að standast strangari kröfur. Í því sambandi vil ég benda á tvö mikilvæg atriði sem setja orð Svavars í nýtt ljós.

Ekki er vitað til þess að flokksstjórn AB hafi leitað eftir gagnrýni á flokkinn úti í flokksdeildunum. Þar var ekki hægt að velja fulltrúa á landsráðstefnuna eftir afstöðu þeirra til málefna sem fyrir lágu. Ennfremur er skrýtið hve lítil gagnrýni nær yfirleitt til forystumanna eða landsfundar frá 3000 mönnum í flokknum. Af blaðafregnum og samtölum má ætla að mest öll gagnrýni sem fram kom á landsfundinum hafi fengið sígilda meðferð. Hún er afgreidd sem "einstaklingsálit" eða einhver ábyrgur foringi "útskýrir hana burt".

Það er óeðlilegt og lítið traustvekjandi að AB skuli aldrei viðurkenna mistök, gagnrýna sjálft sig eða viðurkenna réttmæta gagnrýni. Þannig viðhorf mega aldrei ríkja í verkalýðsflokki. Þau eru ær og kýr borgaralegra flokka. Rifjið bara upp kynni ykkar af flokkunum fjórum.

Lýðræði gerir t.d. ráð fyrir að 30-40 síðna gögn landsfundar stórs flokks liggi frammi handa flokksmönnum í tæka tíð. Þá er hægt að fjalla um þau í flokksdeildum og móta lýðræðislega afstöðu sem fulltrúar eru valdir til að standa fyrir (og minnihluta tryggður seturéttur á landsfundi til viðbótar).

Ekkert þessu líkt gerðist fyrir landsfund AB. Lýðræðið virkar bara að Hótel Loftleiðum meðan fundur stendur. Og gleymum því ekki að í AB eru engar starfsskyldur, þannig að þar myndu þeir einir taka þátt í stefnumótun fyrir landsfund sem gæfu sér tíma. Það er ekki líklegt að flokkur með svona starfshætti sé líklegur til stórræða.

– agé.

# Fréttatilkynning

Helgina 22.-23. nóv var haldin ráðstefna vinstri andstöðunnar í verkalýðshreyfingunni. Þar mætti til skrafs og ráðagerða áhugafólk um verkalýðsmál. Á ráðstefnunni voru rædd starfsemi og stefna verkalýðshreyfingarinnar, málefni ASÍ-þings og framhald starfsins. Í hópnum, sem kaus að nefna sig STÉTTABARÁTTUHÓPINN, var kosin 9 manna nefnd til að hefja útgáfu fréttabréfs og undirbúa aðra ráðstefnu um svipað leyti og kjaramálaráðstefna ASÍ verður í vor.

Á ráðstefnunni var gerð eftirfarandi samþykkt:

Yfirlýsing frá ráðstefnu Stéttabaráttuhópsins:

Verkalýðshreyfingin hefur verið á undanhaldi sl. 3 ár. Hvað eftir annað hafa hagsmunir verkafólks lotið í lægra haldi fyrir sameiginlegum aðgerðum ríkisvalds og atvinnurekenda. Kaupmætti launa hefur hrakað. Enn sárara verður þetta undanhald þegar haft er í huga hversu langt er í það að dagvinnutekjur nægi til framfærslu.

Síðustu samningar gerðu vart meira en að ná upp kjaraskerðingunni árið á undan. En verkalýðshreyfingin situr áfram uppi með Ólafslögin og þau nægja til þess að kjarabætur þessarra samninga verða uppétnar á einu ári. En það er hætta á að þetta gerist ennþá fyrr. Undanhald án baráttu leiðir einungis til aukins sjálftrausts og nýrrar sóknar atvinnurekenda og ríkisvalds á hendur verkafólki.

Orsaka unandhaldsins er fyrst og fremst að leita innan verkalýðshreyfingarinnar sjálfrar, til þeirrar stefnu, að samábyrgð með auðvaldinu er sett í stað baráttu sem einögnu grundvallast á hagsmunum verkafólksins sjálfs.

Þessi stefna og undanhaldið sem hlýtur að koma í kjölfarið hefur skapað vantrú verkafólks á möguleikum verkalýðssamtakanna og dvínandi áhuga á starfi í þeim.

Þessari óheillaþróun verður að snúa við. Til þess verður að vinna nýrri stefnu fylgi innan hreyfingarinnar. Meginatriði hennar eru:

1) Að verkalýðshreyfingin hætti að taka tillit til hagsmuna atvinnurekenda, en móti stefnu sína alfarið út frá hagsmunum alþýðuheimilanna og styrk eigin samtakamáttar.

2) Að starfsemi verkalýðshreyfingarinnar verði óháð ríkisvaldinu.

3) Að virku lýðræði verði komið á í hreyfingunni sem feli í sér stöðuga þátttöku verkafólks í mótun baráttunnar og skapaðir möguleikar til þess að verkafólk geti haft stöðugt eftirlit með gerðum forystu sinnar.

En það er ekki nóg að segja þetta. Þeir sem vilja nýsköpun hreyfingarinnar í þessa átt þurfa að taka höndum saman og skipuleggja sig til sameiginlegs átaks. Ekki bara með yfirlýsingum og ályktunum heldur með sameiginlegu starfi í félögunum og á vinnustöðum.

Þátttakendur á ráðstefnunni setja sér það markmið á næstunni að vinna að tengslum og samstarfi meðal þeirra sem þessa stefnu hafa.

Það er líkur á því að atvinnurekendur og ríkisvald stefni að nýjum árásum á kjör verkafólks á næstu mánuðum. Þetta kallar á andstöðuöflin að hefjast þegar handa að skipuleggja sig.

Þátttakendur á ráðstefnunni hafa opið hús kl. 20.30. mánudags-, þriðjudags- og miðvikudagskvöld n.k. að Hallveigarstöðum á horni Túngötu og Garðastrætis, meðan þing ASÍ stendur yfir. Þar verður rætt um þau mál sem á dagskrá þingsins eru og lagt á ráðin.

23/11/80
Stéttabaráttuhópurinn.

# Stórfelld kjaraskerðing í vændum

Samkvæmt stjórnarskránni er fjárlagafrumvarp lagt fram í upphafi þings að hausti. Þar er greint frá væntanlegum tekjum og gjöldum ríkissjóðs fyrir næsta ár.

Útgjöld ríkisins f. árið 1981 eru áætluð þessi:
1) Til samneyslu: 223,9 milljarðar króna.
2) Tilfærslur: 281,1 milljarðar króna.
3) Stofnkostnaður: 29,5 milljarðar króna.

Helstu tekjuleiðir eru:
Beinir skattar 91,6 milljarð,kr.
Óbeinir skattar 431,4 milljarðar króna.

Sé rýnt nánar í einstaka liði kemur ýmislegt forvitnilegt í ljós: tekjuskattar einstaklinga eru aðeins ríflega 1/10 af heildartekjum ríkisins, að söluskattstekjur eru um þriðjungur heildartekna, að laun eru um 70% af útgjöldum til samneyslu, af tilfærslum eru almannatryggingar (sjúkra- og lífeyristryggingar helstar) langstærsti hlutur, niðurgreiðslur og útflutningsbætur eru 43 milljarðar króna, að erlend lán eru 35 milljarðar króna.

Sumir liða eru fáskýrðir: "Til ráðstöfunar vegna launamála á árinu 1981 Hvað það þýðir vita færri. Áætluð launahækkun 1981 er 15%. Þar við bætast nýgerðir samningar við BSRB og ASÍ

*Kjaraskerðing*

Það sem er alvarlegra er að í fjárlagafrumvarpinu er gert ráð fyrir 42% verðbólgu. Fjármálaráðherra hefur lýst því yfir fyrir stuttu, að átt sé við verðhækkanir frá miðju ári 1980 til miðs árs 1981. Ef taka á slík ummæli alvarlega verður verðbólgan frá áramótum 1980/1981 fram á mitt ár 1981 um 12%. Í einni svipann á að rífa verðbólguna úr 60% niður í 30% miðað við heilt ár. Það sjá allir að í vændum er stórfelld kjaraskerðing, og að klippt verður á lögbundnar verðbætur gróflega Hvað ætlar verkalýðshreyfingin að gera við því? Það verður að vígbúast strax.

Líklega munu ráðherrar draga fram úr pússi sínu milljarða til að "draga úr kjaraskerðingunni". En reynslan hefur leitt í ljós að því líkar "láglaunabætur" eru dropi í hafið.

Það væri verðugt verkefni fyrir samtökin að afla upplýsinga um kaup og kjör og hvetja til baráttu, því að framundan er kjaraskerðing voðalegri en þekkst hefur í langan tíma og það á tímum "vinveittrar" ríkisstjórnar.

P.S. til unnenda alþýðutónlistar:

Sæti á Symfóníutónleikum er greitt niður 9 falt skv. fjárlagafrumvarpi. Fyrirmynd öðrum til eftirbreytni??

Til lögfróðra: Er það ekki brot á Stjórnarskránni, að ráðherrar geti ráðstafað að eigin vild milljörðum eins og nú gerist, t.d. undir liðnum "vegna launa- og verðlagsmála" 27.4 millj. króna og "sérstakar efnahagsráðstafanir" 12 milljarðar króna?

# Hve áreiðanlegar eru upplýsingar um vígbúnað?

Þriggja daga undirbúningur undir stríð.

Í síðasta Verkalýðsblaði var fjallað um hættuna á stríðsátökum milli risaveldanna, Bandaríkjanna og Sovétríkjanna. Það er ekkert vafamál að Ísland mun dragast inn í þau átök að meira eða minna leyti.

Þess vegna er nauðsynlegt að Almannavarnir verði undir slíkt búnar til að tryggja öryggi Íslendinga. En eru þær það?

Í 1. tbl. 6. árg. Dagfara, Blaðs Samtaka herstöðvaandstæðinga er viðtal við Guðjón Petersen framkvæmdastjóra Almannavarna. Í því lýsir hann ástandi þessara mála hér á landi. Hann segir að frá 1970 hafi megináhersla verið lögð á varnir gegn náttúruhamförum, en vörnum gegn hernaði hafi verið þokað til hliðar á meðan. Hins vegar tengjast þessi mál nokkuð þar sem afleiðingar hernaðarátaka, að undanskilinni geislavirkni, séu hinar sömu og vegna náttúruhamfara.

Almannavarnir hafa í seinni tíð snúið sér að vörnum í hernaðarátökum. Brottflutningsáætlanir fyrir öll byggðarlög landsins eru til. Guðjón segir nægilegt skýlisrými vera til og að það sé allt kortlagt.

En þessi skýli eru ekki tilbúin til notkunar strax í dag. Áður þarf að gera ýmsar ráðstafanir til að þau verði nothæf. Í þeim þarf að vera vatn og hreinlætisaðstaða, auk þess sem fyrir hendi þarf að vera nægur matur í nokkra daga. Guðjón segir að Almannavarnir geri ráð fyrir þriggja daga undirbúningstíma fyrir styrjöld, eins og Bandaríkin og Sovétríkin. Á þessum þremur dögum á að undirbúa fólk undir styrjöldina, flytja fólk frá hættusvæðum og fullgera skýlin svo þau verði nothæf til nokkurra daga dvalar.

Þetta finnst manni nú ekki traustvekjandi, ósjálfrátt spyr maður: Hvað gerist ef styrjöldin skellur nánast fyrirvaralaust á?

Skýlin verður að fullklára strax. Allt verður að vera tilbúið, og við verðum að gera ráð fyrir nánast fyrirvaralausum átökum, öryggisins vegna.

-Hafst.

úrverkalýðsbaráttunniúrverkalýðsbaráttunniúrverkalýðsbaráttunniúrverkalýðsbaráttunniúrverkalý
úrverkalýðsbaráttunniúrverkalýðsbaráttunniúrverkalýðsbaráttunniúrverkalýðsbaráttunniúrverkalý

Farandverkafólk hefur haft sig í frammi í kjarabaráttunni undanfarið og mótmælt undanslætti forystunnar. Frá mótmælafundi farandverkafólks í haust.

# Ráðstefna baráttufólks íverkalýðshreyfingunni

Dagana 22. og 23. 11, nokkrum dögum fyrir ASÍ-þingið, var haldin ráðstefna áhugafólks um verkalýðsmál. Til ráðstefnunnar var boðað af hálfu Fylkingarinnar og baráttuhóps farandverkamanna. Hlutverk ráðstefnunnar var líklega dálítið óljóst en þó má ætla að aðstandendur hafi haft tvennt í huga. Annarsvegar að tengja saman óánægða þingfulltrúa og undirbúa þá fyrir þingið, en hins vegar voru uppi óljósar hugmyndir um stofnun hóps sem berðist áfram fyrir baráttustefnu innan ASÍ.

Fyrri dagur ráðstefnunnar fór dálítið í súginn vegna óljósrar dagskrár. Fengu ráðstefnugestir að hlýða á langt framsöguerindi unnið af nokkrum Fylkingarfél. Óljóst var hvort ræða ætti erindið efnislega af fundarmönnum með það fyrir augum að bræða saman pólitískan grundvöll fyrir hópinn og áframhaldandi starf, eða hvort þetta ætti einungis að bera bakgrunnur fyrir ráðstefnugesti í annarri umræðu. Fljótlega komu þó upp tillögur um það að ráðstefnan einbeitti sér að umræðu um þingplögg ASÍ-þingsins. Töldu flutningsmenn, sem reyndar voru úr Kommúnistasamtökunum, að með því væri komist hjá pólitískri hártogun við trotskyista um gamalgróin ágreiningsefni. Tillögum þessum var vel tekið og fór því seinni partur ráðstefnunnar í umfjöllun um þá pólitík sem lögð var fram í tillögum að þingsályktunum ASÍ-þingsins. Það var greinilegt að umræðan varð líflegri og fram kom að ráðstefnugestir áttu margt sameiginlegt í gagnrýni sinni á þingplöggin. Rætt var aðallega um kjaramál, tölvumál, atvinnulýðræði og fræðslumál.

Í lok ráðstefnunnar var ákveðið að staðið yrði að útgáfu fréttabréfs eins oft og tilefni gæfist, fram að kjaramálaráðstefnu ASÍ í vor og kosin stjórn (eða vinnuhópur) til þessa. Er hópnum einnig ætlað að standa að ráðstefnu á undan kjaramálaráðstefnu ASÍ í vor, þar sem samhæfa á kröfur og málflutning baráttusinna. Nafn fréttabréfsins er Andstaða, fréttabréf stéttabaráttusinna í verkalýðshreyfingunni. Eru lesendur Verkalýðsblaðsins hvattir til þess að gerast áskrifendur að fréttabréfinu og tryggja um leið þarfa útgáfu fyrir allt baráttufólk í ASÍ.

Kvöldin 24.-25. og 26.11. stóð hópurinn fyrir opnu húsi að Hallveigastöðum þar sem fulltrúar á ASÍ-þinginu sögðu frá framvindunni og stöðu mála. Kvöldin heppnuðust ekki nógu vel og voru alltof illa sótt. Bæði hefði mátt leggja meiri vinnu í undirbúning s.s. að fá listafólk/söngfólk til þess að lífga upp á og einnig hefði mátt auglýsa kvöldin.

Er líklegt að þetta starf beri einhvern ávöxt, kann einhver að spyrja? Hefur þetta ekki verið reynt áður? Ég fullyrði að ráðstefnan hafi verið gott veganesti fyrir þá fáu þingfulltrúa sem hana sátu og þeirra starf á þinginu varð býsna gott. Þátttakan á ráðstefnunni var hins vegar langt frá því að teljast góð og vantaði fyrst og fremst fleiri virka menn úr verkalýðshreyfingunni. Það er vonandi að sem flestir þeirra sem ekki gátu sótt ráðstefnuna en áttu erindi þangað hafi augastað á þessu starfi, komi til liðs þegar tilefni gefst og styðji fyrirtækið einnig fjárhagslega.

Framhald þessa starfs er einnig háð því hvernig þessum aðstandendum tekst að vinna saman en það er stefna okkar úr Kommúnistasamtökunum að við einbeitum okkur einungis að faglegu starfi og byrjum ekki á því að gera þennan hóp sósíalískan eins og suma kann að dreyma um. Fjárhagslega hliðin gæti einnig orðið þessu starfi erfið nema til komi verulegur stuðningur allra sem umhugað er um málefnið.

DÁNI.

# „Við erum kúgupp
# á púdda-púdda-p

## Ræða Guðmundar Sæmundsson

Guðmundur Sæmundsson, Vlf. Einingu Akureyri flutti á ASÍ-þingi ræðu, sem vakti mikla athygli utan þings sem innan. Við birtum hér þessa ræðu, en hún var flutt á þinginu eftir að kjörnefnd þess hafði greint frá framboði Ásmundar Stefánssonar og Karvels Pálmasonar í embætti forseta ASÍ.

Yfirlýsing:

Vegna kosninga til stöðu forseta ASÍ vil ég taka þetta fram:

Mér skilst að á þessu þingi hafi varla gengið á öðru á bak við tjöldin en alls konar hvimleiðri starfsemi flokkanna. Ýmsir félagar mínir á þinginu kalla þetta makk og flokkapot. Og víst hef ég séð ýmsa flokksforingja ganga hér um með englabros, skjálfandi hendur eftir handabönd og/eða vindilstubba milli vara og tala við atkvæðin sín og við aðra foringja. Og vissulega hverfa hópar manna skyndilega úr fundarsal við og við. Og ekki má gleyma því að margir hafa notið þeirrar virðingar að fá að borða með vonarhýrum sendimönnum þeirra.
En við mig hefur ekkert verið makkað. Og ég hef orðið að borða hádegisverðina mína án þess að fá flokkssósu út á þá. Hvernig ætli standi annars á því? Og öll höfum við verið vandlega skráð og merkt af smölum þeirra eða smalastúlkum. Hún kemur sér vel reynslan úr Alþingiskosningum. Og allar ganga þessar upplýsingar til blaðanna, sem hafa skipað okkur í 5 bása. Ég er hreykinn af mínum bás, en ég væri ekki hreykinn ef mér hefði verið skipað í einhvern hinna.

En drífandi drift flokksforingjanna er ekkert nýtt í verkalýðshreyfingunni. Þeir hafa alltaf verið duglegir að vinna fyrir sína flokka. Það hefði verið óskandi að þeir hefðu sýnt sama kraftinn og eljuna í síðustu samningum - svona svo að eitthvað sé nefnt En atvinnurekendur eru væntanlega ánægðir með svonalöguð vinnubrögð. Og það er fyrir öllu, að einhverjir séu ánægðir, eða hvað?

Við hvað hafa svo forystumennirnir okkar verið uppteknir? Jú þeir eru að semja. Þeir vilja helst alltaf vera að semja. Þeir ætluðu að minnsta kosti aldrei að fást til að hætta að semja, við Þorstein Pálsson og co um daginn. Þó voru þeir búnir að vera að í 10 mánuði. En nú eru þeir ekki að semja um þjóðarkökuna sína, heldur miðstjórnarkökuna. Og aðalkaffibrauðið, sem mestu skiptir að rétt sé skorið, hvert skyldi það nú vera? Er einhver í vafa? Já, það er forsetatertan. Og hún á að skiptast í tvennt. Til málamynda ætla þeir að lofa smáskepnunum í básunum að greiða atkvæði. En það skiptir engu máli. Þeir eru búnir að reikna það alveg út, hvernig baulukórinn muni syngja.

Þetta er nú lýðræðishugsjónin þeirra flokks-

"Sögulegar sættir" Ásmundu[r]
Björn Þórhallsson varaforset[i]
þýðubandalags- og sjálfstæði[s]
stólana.

# gefin
# údd- aðferðinni.“

## nar á ASÍ-þingi

generálanna í hreyfingunni okkar. Þetta er lýðræðishugsjónin sem gerir verkalýðshreyfinguna að ólýðræðislegustu hreyfingu hérlendis, ef Frímúrarar eru undanskildir. Þetta er lýðræðishugsjónin sem hrekur allt venjulegt fólk til fjalla, ef verkalýðshreyfingin ætlar að halda fundi. Alla nema pólitíska þverhausa eins og mig og nokkra fleiri.
Og svo auðvitað stjórnirnar og stundum trúnaðarmannaráðin. Þetta er nefnilega ekki lýðræði nema fyrir suma. Fyrir flokkana og pótintáta þeirra. Stundum kallað flokksræði.

r Stefánsson forseti (t.h.) og ti ASÍ (t.v.). Samvinna Alisflokksmanna tryggði þeim

Nú eru auðvitað ekki til- og verða aldrei til - neinar skynsamlegar reglur sem banna flokkum og þúfutittlingum þeirra að standa framarlega í almennri verkalýðsbaráttu. Pólitíkusar sem ekki komast á þing verða jú að hafa ofan af fyrir sér og fjölskyldum sínum eins og aðrir. Og það er ágætis vinna að sitja á skrifstofu verkalýðsfélags, þiggja þar góð laun og vera kallaður verkalýðsforingi fyrir. En fólkið - félagarnir í verkalýðshreyfingunni- eru bara að verða þreyttir á þessu. Alveg eins og við á þessu þingi erum mörg orðin kúguppgefin á púddapúdda-púdd-aðferðum þeirra hér. Við værum kannski ekki svona þreytt á þessu, ef þessir flokkar - þó ekki væri nema einn þeirra- væru þannig af guði gerðir, að þeir væru fyrst og fremst að hugsa um hag verkafólks og annarra launþega. En svo er nú ekki, því miður. Engum þeirra hefur tekist að staulast niður úr ríkisstjórnarstólum, án þess að vera fyrst búinn að sparka ærlega í hálftómar gullkistur launafólks og tína þaðan nokkrar handfyllir. Við bíðum enn eftir flokki sem bæði segist ekki ætla að haga sér svona og gerir það ekki. Og við skulum ekkert hætta að bíða og vona. Hann hlýtur að koma.

Nú, en það er framboðið. Enginn hefur komið að máli við mig um að ég byði mig fram sem forseta. En það hefur heldur enginn beðið mig um að gera það ekki. Og það er of seint að gera það núna. Ég veit heldur ekki um neinn sem ætlar að styðja mig, ef ég býð mig fram. Karl Steinar, varaforseti þingsins, létti af mér þungu fargi í gær, þegar hann sagði mér að uppástungu þyrfti ekki að fylgja nema eitt nafn - nafn þess sem gerði uppástunguna. Ef hann hefði sagt eitthvað annað hefði ég þurft að fara að hvísla í eyru og klappa á axlir. Hér á þinginu eru þó kannski - ég endurtek kannski - einhverjir fleiri en ég sem óska þess að geta látið í ljós skömm sína á flokkapoti og hundflatri stefnu flokkshollustumanna í hreyfingunni og á því að ekki skuli vera um annað að velja en flokksmarkaða framboðssauði. Ég á auðvitað ekki von á því að básarnir brotni niður vegna þessa tiltækis míns. En ég get þá alltaf sagt eins og Vilmundur: "Ef - ef - - ef—, þá hefði ég áreiðanlega náð kjöri". Gjörið svo vel, ágætu þingfulltrúar, þeir sem vilja mótmæla: Ég sting upp á sjálfum mér sem forseta ASI.

Guðmundur Sæmundsson.

# Úr ályktun ASÍ-þings um kjara- og efnahagsmál

"Hinu er þó ekki að leyna að enn vantar mikið á að lágtekjufólk búi við viðunandi launakjör. Auk baráttunnar gegn skerðingu kaupmáttar launa verður verkalýðshreyfingin að hefja á loft kröfuna um afnám vinnuþrælkunar. Óhóflegur vinnutími er bein lífskjaraskerðing og því marki verður að ná að kaup fyrir dagvinnu nægi til framfærslu. Í komandi samningum verður því enn að leggja megináherslu á að bæta kjör þeirra lægra launuðu, bæði í kaupi og með félagslegum aðgerðum."

"Núverandi ríkisstjórn hefur gefið yfirlýsingar um ýmis mikilvæg félagsleg atriði og stuðlaði hún þannig að lausn kjarasamninganna, þó töluvert vantaði á að komið væri til móts við kröfur samtakanna svo sem varðandi lífeyrismál og skattamál.
34. þing ASÍ varar alvarlega við öllum hugmyndum sem stefna að skerðingu kaupmáttar. Slíkum aðgerðum yrði mætt af fullri hörku."

"Vísitölukerfið er vörn launafólks gegn verðbólgunni og samtökin hljóta í næstu kjarasamningum að leggja áherslu á að bæta kerfið svo umsaminn kaupmáttur verði betur tryggður. Draga verður úr víxlhækkunum verðlags og launa með raunhæfum aðgerðum í verðlagsmálum. Takist að draga úr verðhækkunum dregur jafnharðan úr verðbótahækkunum launa, því bætur reiknast aðeins fyrir þegar áorðnar verðhækkanir. Verðbætur eru því afleiðing en ekki orsök verðbólgunnar.
34.þing ASÍ minnir á að við óbreytt skert vísitölukerfi mun kaupmáttur fyrirsjáanlega falla um 1-2% á ársfjórðungi á samningstímanum. Því skorar 34. þing ASÍ á Alþingi að afnema þau ákvæði laga nr. 13/1979 (Ólafslaga) sem kveða á um skerðingu verðbóta á laun skv. kjarasamningum frá 22.júní 1977.

Brýnt er að nýir kjarasamningar taki gildi 1. nóv. 1981 og til að fylgja því eftir mun verkalýðshreyfingin leggja mikinn þunga og áherslu á kröfuna um afturvirkni samninganna, ef síðar takast. Sú krafa miðar að því að koma í veg fyrir að atvinnurekendur geti hagnast á því að tefja samninga með endalausu þófi og undanbrögðum, líkt og í síðustu samningagerð. Þingið leggur áherslu á að öllum undirbúningi verði hraðað, þannig að fullmótuð kröfugerð liggi fyrir þegar í september ásamt ákvörðun um það, hvernig skuli staðið að samningum."

"34.þing ASÍ leggur áherslu á að réttindi farandverkafólks verði aukin og kannað ítarlega með hvaða hætti megi tryggja þeim betur en nú er félagsréttindi í verkalýðsfélögum og skorar jafnframt á verkalýðsfélögin að sjá til þess að réttindi farandverkafólks verði ekki fyrir borð borin.

34.þing ASÍ ítrekar að við samningsgerð og almennt í starfsemi samtakanna er mikilvægt að auka og efla tengslin við hinn almenna félaga. Upplýsingamiðlun, fræðsla og fundahöld og þá vinnustaðafundir sérstaklega verða að vera virkari þættir í starfsemi samtakanna. Styrkur verkalýðsstéttarinnar í samskiptum við atvinnurekendur og stjórnvöld felst í vel upplýstri og virkri hreyfingu launafólks. Aðeins virk og öflug verkalýðshreyfing getur náð fram umtalsverðum kjarabótum við þær aðstæður sem við búum við í dag, en þær einkennast af alþjóðlegri og innlendri kreppuþróun og herskárri harðlínustefnu atvinnurekenda."

## ASÍ-þing

# Ríkisstjórnarmynstur í miðstjórn

framhald af forsíðu

Alþýðubandalags í kosningu til stjórnar Meningar-og fræðslusambands alþýðu, en frambjóðandann Auði Guðbrandsdóttur vantaði 2.5oo atkvæði til að fella íhaldsmanninn Sigfinn Sigurðsson frá VR.

- Og þú sjálfur? Þú fórst tvisvar í framboð?

- Já, framboð mitt til forseta var ekkert venjulegt framboð, heldur fyrst og fremst mótmæli gegn flokksræðinu og stefnu forystunnar, en um leið aðferð til að komast út með áróðurinn. Ég fékk þar um 2.3oo atkvæði eða um 4% atkvæða, sem var miklu meira en ég átti von á. 15-2o fulltrúar hafa notað sér þetta tækifæri til að mótmæla makkinu og flokkapotinu. Seinna skiptið var framboð mitt til að verða varamaður í miðstjórn. Þetta var alvarlegt framboð tilraun til að komast upp á milli hjóna, en um leið könnun á styrk þeirra viðhorfa sem ég og fleiri höfðum barist fyrir á þinginu. Ég fékk 13.225 atkvæði eða tæp 30% atkvæða frá um 13o-15o fulltrúum. En það nægði ekki. Þetta atkvæðamagn kom okkur verulega á óvart. Ég vil túlka það sem einlæga áskorun til okkar andstæðinga forystunnar um að halda áfram starfinu og að við eigum vísan suðning mjög margra í hreyfingunni til góðra verka.

- Telurðu að fulltrúar á þinginu túlki skoðanir vinnandi fólks í verkalýðshreyfingunni?

- Að sumu leyti. Flestir þessir fulltrúar eru sjálfskipaðir eða valdir af stjórnum í óvirkum félögum. Það er líklegt að þeir séu því íhaldssamari en fjöldinn og ekki eins gagnrýnir. Einnig var þrýstingurinn á þá frá flokkunum geigvænlega mikill, svo að ég lái þeim ekki að þeir skyldu flestir beygja sig. Ég reikna með að óánægjan með forystuna, flokksræðið og stefnu verkalýðshreyfingarinnar og starfsaðferðir sé útbreiddari en fram kom á þinginu.

- Hvernig starfaðir þú á þinginu?

- Helgina fyrir ASÍ þing var haldin merkileg ráðstefna vinsti andstæðinga ASÍ-forystunnar. Þar hófst samstarf sem hélt áfram inni á þinginu og víkkaði út þar. Þetta samstarf var fólgið í að samræma málflutning og tillögugerð í hinum ýmsu málum. Við leituðum til ýmissa einstaklinga um að vera með okkur í tillagnagerð, og þegar leið á þingið var farið að leita til okkar með það sama. Við lögðum mikla áherslu á að skapa þarna ný tengsl, og að minnsta kosti ég hef náð miklu fleiri og dýrmætari tengslum en ég hafði innan verkalýðshreyfingarinnar. Þar hjálpaði líka þetta forsetaframboð mitt, sem fulltrúarnir vissu um frá byrjun. En það sem skipti kannski mestu máli með það framboð var að með því tókst að komast út til fólks - út fyrir þingið - með þá stefnu sem við stöndum fyrir.

- Hvað um framhaldið?

- Framhaldið er auðvitað margþætt. Þar er fyrst að telja að mikilvægast er að efla starfið innan einstakra félaga, auka virknina, kynna niðurstöður þingsins fyrir fólki og hvetja það til baráttu. Í annan stað verður að treysta þau tengsl innan verkalýðshreyfingarinnar sem þarna tókust og nota þau til að skapa fleiri. Í þriðja lagi verður að fylgjast vel með því að hin nýja forysta ASÍ - sem ég tel þó lítið breytta þrátt fyrir mikil mannaskipti - framfylgi þeim atriðum í stefnumörkun ASÍ-þings, sem jákvæðust eru. Fjórða og síðasta atriðið sem ég vil nefna er að starf vinstri andsöðunnar, sem valdi að kalla sig Stéttabaráttuhópinn, haldi áfram, en víkki út og verði baráttuhreyfing allra andstæðinga uppgjafarstefnu og lýðræðisskorts í verkalýðshreyfingunni, án tillits til flokkspólitískrar afstöðu eða grundvallarskoðana í þjóðfélagsmálum.

## Landsfundur AB:

# Meira þarf til skiptanna

### *Eina krónu fyrir mig- tíu fyrir hann*

Rauði þráðurinn í stefnu Alþýðubandalagsins kemur vel fram í ályktun landsfundar þess. Þar segir að auka þurfi verðmæti og magn framleiðslunnar. Það er helsta meðalið við verðbólgu og kreppu. Meira þarf sem sagt til skipta milli launafólks og ríkisbubba fremur en að ráðast gegn skiptingu þess sem framleitt er og til er.

Landsfundurinn setur fram yfirgripsmikla tillögu um hraðvirkara, afkastameira og skynsamlegra arðránsskipulag með ýmsum ágætum réttarbótum fyrir launafólk. Þar með er AB trútt nú sem fyrr pólitískum grunni sínum: Endurbótum á ríkjandi kerfi - sem eiga að "endurbæta burt" auðskipulagið smám saman. Enda er sósíalismi og afnám kapítalisma afgreitt með einni setningu. Væntanlega af nauðþurft: "Flokkurinn hvetur til allsherjarátaks til að efla félagsleg eignaform og til að auka möguleika almennings til áhrifa á atvinnurekstur og starfsumhverfi"

### *Sjálfsánægjan uppmáluð*

Að venju kennir landsfundurinn arfinum sem Gunnarsstjórnin tók eftir Geir og kó um hægagang hennar. Slíkan varnagla væri þarflítið að slá ef AB gerði heiðarlega grein fyrir mistökum eða íhaldsemi og takmörkunum síns eigin afkvæmis. En það er ekki gert - heldur gortað í hófi.

Verðbólga er sögð hafa minnkað um 15%. Útilokað er að staðfesta töluna, en mikilvægara þó að AB heldur orsakir verðbólgu aðrar en þær eru. Einhæf framleiðsla, óréttlát tekjuskipting, stjórnlausar fjárfestingar og óráðsía eru einkenni en ekki orsakir verðbólgu. AB viðurkennir ekki að höfuðorsök verðbólgu er sókn atvinnurekenda í hámarksgróða. Það eru þeir sem spenna upp verð til að lifa - sumir hátt - í stjórnlausri samkeppni. Úrbætur AB beinast að því að draga úr einkennunum í stað þess að stöðva verðhækkanir og ná fram sameiginlegu átaki vinnandi fólks við að færa fjármuni frá fyrirtækjunum til fólksins.

Styðjum úrbætur.

Kommúnistar styðja viðleitni AB (og annarra flokka) til úrbóta þrátt fyrir takmarkanir flokksins.

Dæmi um jákvæð atriði eru félagslegu réttindin sem lögfest voru fyrir skömmu, fæðingarorlof, hygmyndir um lægri vexti og kröfur um að farið verði í saumana á inn- og útflutningsversluninni. Þar leynast ljót kýli. Nefna má um 20% hærra heildsöluverð innfluttra vara en þörf er á, falin umboðslaun í formi innfluttrar vöru sem er undandregin skýrslum og skatti og loks fjármagnsútflutning og gróða af gengisfellingum sem hleður undir SÍS og SH.

Hugmyndir AB um lækkun kosningaaldurs og breytta kosningareglur eru góðar. Sama má segja um skattalækkun hjá launafólki en skattahækkun hjá hinum.

Tillögur AB um víðtækari og félagslegri nýtingu auðlinda eiga sér víðtækan stuðning. Ætli flokkurinn að standa við þær verður hann að láta af þeirra ofveiðastefnu sem hann hefur mótað með LÍÚ og öðrum valdaaðilum og taka upp af afli baráttu fyrir t.d. innlendri eldsneytisframleiðslu í anda Braga Árnasonar ofl. og fyrir meira en 6 milljarða framlagi til uppgræðslu næstu 5 árin eins og nýlandgræðsluáætlun hljóðar upp á.

### *Hvenær má lifa af dagvinnu*

Kaupgjaldsmálin hjá AB eru í anda viðhalds á núverandi vinnuþrælkun.

Meginviðhorf flokksins eru þau að ekki sé svigrúm til að hækka laun meira en orðið er. Fullt tillit á að taka til "greiðslugetu" Trópícanabræðranna og færa sem mest af krónunum sem þeir segjast geta greitt úr vasa fólks með 4oo þús. í vasa þeirra sem hafa bara 3oo þús. Sniðugt og sósíalískt! Samningar sem tákna minni kaupmátt en 1978 og 1977 eru kallaðir "viðunandi"(sjá mynd).

Engin gagnrýni kemur fram á ASÍ fyrir ræfildóm í samningalotunni löngu, en VSÍ er sakað um óbilgirni. Hvar var óbilgirni ASÍ? Geir og vondum lagaákvæðum er réttilega kennt um rýrnun kaupmáttar, en ekki minnst á að AB átti þátt í að samþykkja sum þeirra. Skyldi enginn hafa minnst á þetta til vansa? Benti enginn á að allt tal AB um að hér sé ekkert atvinnuleysi (og réttlæti rýrnun launa) er fals? Mörg þúsund manns hverfa árlega úr landi.

Ekkert kom fram á landsfundinum er bent getur til að AB ætli að sækja á til þess að dagvinnutekjur nálgist framfærslukostnað - nema ef fólk framleiðir meira. AB ætlar heldur ekki að berjast fyrir afnámi Ólafslaga. Hinsvegar sýnist að AB ætli að hindra bankamenn í að ná 1oo-2oo þúr. kr. sem þeir eiga hjá húsbændum sínum, þegar þetta er skrifað.

Sá grunur læðist að manni að landsfundur AB hafi helst verið stofnun þar sem helstu hjálparlyf handa auðmagninu hafi fengið uppáskrift formlegheitanna vegna, en þess jafnframt gætt að við launaþrælar fengjum nokkrar róandi stikkpillur.

agþ.




Kjarasamningar 1974 komu kaupmætti hærra en áður en þó alllangt undir framfærslukostnaði. Í lok kjörtímabils þáverandi "vinstri" stjórnar hófust skerðingaraðgerðir. Stjórnin féll og Geirsstjórnin hélt árásunum áfram, samfara efnahagskreppu. Sæmilegir samningar náðust eftir hana 1977 (sólstöðusamningar) og kaupmáttur mjakast upp (baráttan um "samningana í gildi") 1978, en hefur hrapað síðan í tíð hægri og "vinstri" stjórna.

Nýgerðir ASÍ-samningar ýta kaupmætti upp undir sólstöðusamningana en hann mun falla 1981. 1oo þús.kr. krafa frá ASÍ-þinginu 1976 jafngildir nú um 43o þús.kr., en taxtinn er í nánd við 34o þús. kr.

# Skuggahnefaleikar AB

Enginn andstæðingur NATO?

Ég plægði í gegnum yfirlýsingar landsfundar Alþýðubandalagsins um öryggismál og herinn og ræðu Ólafs Ragnars um sama efni. Tvisvar.

Það er greinilega hægt að framleiða margar vélritaðar síður um aukinn vígbúnað, viðsjár hervelda, NATO, herstöðina við Keflavík og kjarnavopn ÁN ÞESS að minnast einu orði á MÓTHERJA Bandaríkjanna og NATO. Þar er líka hægt að vera í ágætu fréttasambandi við umheiminn en segja ekki orð um líkur á styrjöld eða framferði risaveldanna á þessari stundu.

Getur það verið að forysta AB reyni skipulega að gabba fólk eða hefur fólk sem óttast Sovétríkin jafn mikið eða meir en NATO rangt fyrir sér? Líklega er hvorutveggja rangt.

Miðað við viðsjárverða tíma og mikilvægi AB sem stjórnmálaafls er það sem landsfundurinn lét frá sér fara verra en ekkert. Þungur enn sannur dómur.

### *Annað augað blint!*

Tvö viðhorf einkenna plögg landsfundar öðrum fremur. Annarsvegar eru það bara auðhringar og Pentagon sem ógna íslensku sjálfstæði. Hinsvegar eru lykilorð í baráttu fyrir friði allsherjarafvopnun, vopnlaust hlutleysi Íslands og barátta gegn bandarískum vígbúnaði. Hvílík blinda.

AB viðurkennir ekki sovéska ógnun hér á norðurhjaranum. Þegar flokkurinn minnist á aukinn vígbúnað NATO er látið líta svo út að um einhliða stríðsundirbúing sé að ræða.

Hversvegna þarf AB að láta líta svo út að Sovétríkin hafi ekki áhuga á notkun Íslands í stríði til að tryggja ferðir um N-Atlantshaf? Ef AB ýjar óbeint að slíku með tali um yfirvofandi kjarnorkuárás á landið, hvað er okkur þá hollt að vita um vígbúnað og útþennslu Sovétríkjanna á norðurhjaranum? Engin svör.

Íslandi stafar mikil hætta af Sovétríkjunum, hvort sem hér eru erlendar herstöðvar eða ekki. Af herstöðvunum stafar hinsvegar meiri eyðingarhætta en ella vegna þess að þær verður að gera óstarfhæfar eða viðhalda eftir því hvaðan horft er. Kremlarbændum er mikill greiði af allri þokunni sem AB sveipar þessi mál. Ekki einu sinni Pólland eða Afganistan eru til fyrir landsfundi AB.

### *Hvað gerir Hjörleifur?*

Auðhringarnir sem landsfundurinn nefnir, hafa þegar mikil ítök í lífi þjóðarinnar eins og Elías Davíðsson hefur margsannað öðrum fremur. Landsfundurinn afhjúpaði ekkert af þessu né heldur setti hann ráðherrann AB nein verkefni. Manni finnst að á efnið hafi verið minnst til að friða nokkrar gagnrýnisraddir.

### *Fleiri mið þarf en eitt*

Allt afvopnunar- og friðartal AB beinist annað hvort að NATO einu eða missir marks. Eiga t.d. þriðja heims ríkin sem hafa barist fyrir þjóðfrelsi að afvopnast? Eigum við bara að krefjast þess að NATO staðsetji ekki meðalflaugar í Evrópu eða eigum við líka að heimta að Sovétmenn afnemi SS-2o-kerfi sitt sem veitir þeim kjarnorkuyfirburði í Evrópu til 1983.

Hvernig eigum við Íslendingar að gæta lífa og lima ef til styrjaldar dregur? Óþægilegar spurningar krefjast hlutstæðra svara. Krafa um friðlýsingu N-Atlantshafsins eða um minni NATO-umsvif hér og í Noregi getur ekki komið í stað krafna og baráttu sem beinist gegn höfuðandstæðingi almúgans í heiminum: Risaveldunum. Og enn síður er rétt að tvístra fólki í skelfingu með kjarnasprengjugrýlunni í stað allrar jarðbundinnar stefnumótunnar sem gerir okkur sem best í stakk búin að mæta venjulegri árás, kjarnaárás, átökum um landið eða hernámi.

Kommúnistar taka undir kröfur AB um bann við staðsetningu AVACS-flugvéla og við flutningi eða geymslu kjarnavopna á landinu. Þeir vilja ekki auka olíbirgðir hersins og berjast fyrir úrsögn úr NATO. En þeir telja ekki síður brýnt að segja sannleikann um Sovétríkin, undirbúa íslenskar landvarnir af ýmsum tegundum og hætta kaldastríðstalinu.

Landfundur AB brást í öllum þessum mikilvægu verkefnum.

– agé.

# Í minningu Steve Biko

tónlist

Árið 1977 pyntaði s-afríkanska lögreglan blökkumannin Steve Biko til bana. Því miður eru morð hversdagslegur atburður í S-Afríku. Pyntingar og morð eru það stór þáttur í störfum s-afríkönsku lögreglunnar.

Steve Biko var framarlega í flokki baráttuhóps s-afríkanskra blökkumanna. Morðið vakti því nokkra athygli. Um þennan atburð hafa verið skrifaðar margar bækur, færð upp leikrit, gerðar kvikmyndir o.s.frv. Poppmúsíkantar hafa ekki látið sitt eftir liggja. Er það e.t.v. vitni um vaxandi stéttar- og þjóðfélagsvitund vestrænna "poppara" (að bandarískum undanskildum) samfara uppgangi reggae og pönkrokks (undir samheitinu nýbylgja).

Lagið "Tribute To Steve Biko" með jamaíska reggaesöngvaranum Tapper Zukie seldist vel hérlendis og víðar á samansafnsplötunni "Your Last Chance.... The Front Line 2". Breska reggaehljómsveitin Steel Pulse kom plötu sinni "Tribute To Martyrs" ofarlega á breska vinsældarlistann. Á plötunni er fjallað um morðið á Biko í tveimur lögum, "Biko's Kindred Lament" og titillaginu. Og fyrir skömmu samdi og söng vinsælasti rokksöngvari Bretlands (sbr. vinsældakosning Melody Maker), Peter Gabriel, inn á plötu lag sem heitir "Biko".

Án efa er framlag Peters Gabriels áhrifamest af þeim dæmum sem hér hafa verið nefnd. Auk þess að vera vinsælasti söngvari Bretlands er Gabriel virtur sem snjall tónlistarmaður (hann var um áraraðir aðalnúmer hljómsveitarinnar Genesis). Þá er Gabríel "hvítur" (Tapper Zukie og meðlimir Steel Pulse eru blökkumenn) og hefur til þessa látið mannréttindabrot afskiptalaus. A,m.k. opinberlega.

Fyrir rúmu ári lýsti Gabríel m.a.s. í blaðaviðtölum yfir vanþóknun á að Tom Robinson blandaði saman poppmúsík og pólitík. Síðar kynntist Gabríel baráttusöngvaranum Tom Robinson persónulega. Tókst með þeim svo mikill vinskapur að þeir hófu samvinnu á lagasmíðum og spilamennsku (á plötunni "TRB TWO" sem fengist hefur í Októberbúðinni, er m.a. að finna lag sem Gabriel og Robinson eru báðir skrifaðir fyrir).

Í lokin er rétt að geta þess að ágóðinn af sölu 45 snúninga plötunnar "Biko" með Peter Gabriel rennur óskiptur til The Steve Biko Black Consciousness Movement.

- j.guð.





Norskir fjölritarar á skrifstofu Frjálsrar verkalýðshreyfingar í Gdansk. Alþjóðleg samstaða í verki.

# Endurtekur sagan sig?

framhald af forsíðu

Að verkfallsbaráttan nú í ágúst 1980 tókst með þvílíkum ágætum að hún hefur verið óslitin sigurganga er árangur þess undirbúnings sem hin ýmsu samtök andófsmanna hafa unnið síðastliðið ár. Frá því að vera tiltölulega lítill hópur í ársbyrjum 1980 er hreyfing sú sem gerir flokknum og áhangendum Kremlarherranna lífið leitt orðin milljónahreyfing. Til þess að skipuleggja slíka hreyfingu að einhverju leiti, eins og gert hefur verið, þarf mikinn undirbúning í landi eins og Póllandi. Pólitískt starf og hverskonar félagslíf í eða utan raða verkalýðs hefur verið algerlega undir eftirliti flokksins. Framhjá þessu eftirliti varð að fara við skipulagningu og áróðursstörf. Enda þótt margt sé enn óskipulagt og beri merki um tilviljanakenndar upphlaupsaðgerðir er ljóst að forysta hinnar nýju verkalýðshreyfingar veit hvert hún er að fara. Það er ekki **nóg að vinna sigra, það þarf líka að hafa stjórnlist á hreinu til að verja sigrana gegn niðurrifi innlendra afla, þ.e. flokkskerfisins** og ríkisvaldsins. Að verjast innrásaröflum er önnur grein af sama meiði. Til þess þarf enn nýja baráttuaðferð.

## *Ópólitísk en sósíalísk*

Forystumenn hinnar nýju verkalýðshreyfingar, fyrst og fremst forystumenn Samstöðu, hafa oft svarað spurningunni um pólitíska stöðu hreyfingarinnar á þann hátt að hún sé óháð. Óháð flokknum og stríðandi þjóðfélagsöflum öðrum en verkalýð. Hreyfingin sé hreyfing verkalýðs og því sósíalísk. Í augum pólsks verkalýðs er sósíalismi stefna og hugsun verkalýðsins og þá auðvitað hreyfingar hans. Hvernig verkalýðshreyfing geti verið kapítalísk getur verkafólk ekki skilið. Hreyfingunni er ekki stefnt til að taka völdin í ríkinu. Það liggur utan hennar verksviðs og því er hreyfingin ekki byltingarsinnuð. Hreyfingin tekur ekki afstöðu til utanríkismála. Sósíalískt markmið hreyfingarinnar er í því fólgið að auka rétt alþýðu **til félagslegrar þátttöku og til ákvarðana um öll þau mál er snerta hana. Það er því undir alþýðunni sjálfri** komið hvort hún notar þennan rétt til að skerast í leikinn um völdin í landinu, hvort hún sameinast í pólitíska flokka eða flokk sem skáka völdum flokksnefnunnar sem kallar sig kommúnistaflokk, en er ekki meiri kommúnistaflokkur en Sjálfstæðisflokkurinn.

## *Pólland og Vesturlönd*

Það eru margir sem vilja þrýsta pólskum verkalýð að brjósti sér þessa dagana. Gott og vel, hann þarf mikinn stuðning og tekur sjálfsagt við öllum stuðningi sem notast má við og ekki er bundinn skilyrðum. Við ættum því sem flest að sameinast um að styðja hina nýju hreyfingu í Póllandi. Í verkföllunum síðastliðið sumar notuðust verkfallsmenn við hinar frumstæðustu aðferðir til að búa til dreifimiða, þar áttu ekki fjölritara eða prentvélar. Verkalýðsfélög í Osló og víðar söfnuðu fé og keyptu nokkra offsetfjölritara og sendu þeim. Nú eru hugmyndir um að safna fyrir fullkominni prentsmiðju og ekki **veitir af, því félagar nýju verkalýðshreyfingarinnar** eru orðnir 10 milljónir talsins. ASÍ hefur lýst yfir stuðningi við frjálsu verkalýðshreyfinguna í Póllandi. Full ástæða væri til að ASÍ tæki frumkvæði að fjársöfnun til tækjakaupa t.d. í félagi við verkalýðshreyfinguna á Norðurlöndum.

Það eru sögulegir atburðir að gerast í Póllandi. En sagan er ekki aðeins skrifuð í Póllandi þótt atburðirnir eigi sér þar stað. Stuðningur okkar og samstaða við þá fjöldahreyfingu nú í Póllandi og víðar um Austur Evrópu er einn þeirra mikilvægu þátta sem geta komið í veg fyrir að söguhjólinu verði snúið afturábak og byrja þurfi á nýjan leik að sækja þá ávinninga sem pólsk alþýða hefur náð. Við getum hjálpað til en pólsk alþýða vinnur verkið og ræður ferðinni.

Æ.

# Lítil saga úr kjarabaráttunni

Það standa fleiri í kjarabaráttunni en stóru launþegasamtökin. Hér á Akureyri hefur lítill hópur verkamanna staðið í langri baráttu fyrir bættum kjörum.

Það eru sorphreinsunarmenn. Kröfur þeirra eru einkum að þeir fái sambærileg kjör við starfsbræður sína í Reykjavík sem fá 35% bónusálag ofan á kaup sitt svo fremi þeir ljúki vikulegri yfirferð sinni. Akureyrarbær hefur staðið gegn þessum kröfum og reynt á alla lund að eyða málinu eða drepa því á dreif. Það tókst þó ekki. Með aðstoð verkalýðsfélagsins Einingar lukkaðist sorphreinsunarmönnum að knýja fram yfirlýsingu um að sá bónus sem um semdist skyldi gilda frá 1. júní sl. og gerðar yrðu tímamælingar og vinnurannsóknir á höpnum til að meta hvað væri hæfilegur bónus. Vinnurannsóknunum er nú lokið og verið er að semja álitsgerð um málið. Sú álitsgerð verður lögð fyrir bæinn og sorphreinsunarmennina og verkalýðsfélagið og þá hefst strögglið á ný - frágangur samnings og ákvörðun um bónusprósentu.

Allt hefur þetta tekið talsverðan tíma. Sorphreinsunarmenn kröfðust þess að fá greitt upp í væntanlegan bónus. Bæjarstjórnin neitaði og verkalýðsfélaginu fannst ekki ástæða til að styðja þá kröfu. En sorphreinsunarmenn settu þá hörku í málið, hótuðu verkfalli og unnu eina viku í hægagangi. Þá féllst bæjarráð á að þeim skyldi greitt upp í bónus frá 1. júní sl.

F.

210

Lausasala: kr. 400
Ársáskrift: kr. 6.000
Árssturðningsáskr: kr. 12.000
Ársáskr. til útl: kr. 12.000

Verkalýðsblaðið

17.tbl. 9.árg. 17.12.1980

# Til áskrifenda

Um þessar mundir er fjárhagsstaða Verkalýðsblaðsins mjög erfið. Ástæða þess, auk verðbólgu og annarra kostnaðarhækkana, er að blaðið á útistandandi mikið af óinnheimtum áskriftargjöldum fyrir þetta ár. Best er að viðurkenna hreint út, að félagar samtakanna hafa ekki staðið sig nægilega vel við rukkanir, enda hafa þeir það sér til afsökunar, að innheimta er ákaflega tímafrekt og erfitt starf, þar sem áskrifendur dreifast um allt land og margir vanrækja að tilkynna breytt heimilisföng.

Við viljum því eindregið beina þeim vinsamlegu tilmælum til allra þeirra áskrifenda sem ekki hafa greitt áskrift fyrir það ár sem nú er senn að enda, að þeir bregði sér á næsta pósthús sem fyrst og leggi áskriftarskuld sína (6000 kr. kostar ársáskrift, ef fólk vill greiða meira er það vel þegið) inn á gíróreikning blaðsins sem er nr. 122009. Látið nafn og heimilisfang fylgja á greiðsluseðlinum, þannig að hægt sé að bókfæra greiðslu áskrifta.

Áskrifendur, munið eftir að tilkynna breytt heimilisföng.

# Ráðstefna um almannavaranir gegn hernaði

Miðvikudaginn 29. okt. sl. héldu Samtök herstöðvaandstæðinga á Akureyri félagsfund. Fundarefni var aðallega niðurstöður landsráðstefnu, mat á henni og starfið framundan. Ný stjórn var kosin á haustfundi fyrr í mánuðinum og hefur nú skipt með sér verkum. Formaður er Sirrý Sigurðardóttir.

Á starfsáætlun stjórnar eru framundan fjögur atriði: 1) Í desember er ráðgert að koma upp kappræðufundi um hermálið og reyna að fá þekkt andlit til að halda framsögu.
2) Á þrettándanum verður jólaball eins og í fyrra.
3) Þá er í ráði að koma á laggirnar fræðslufundi eða fræðsluráðstefnu um almannavarnir gegn hernaði og fá þangað yfirmann almannavarna á Akureyri.
4) Loks er í ráði að koma af stað námskeiði í ræðumennsku og fundarstörfum.

F.

# Hvers konar verkalýðsflokk?

2. fundur (af fimm) um stefnuskrárdrög Kommúnistasamtakanna var haldinn 18.nóv. í Reykjavík.

Fjallaði hann um verkalýðsflokk og verkalýðshreyfingu. Fram kom hvernig kommúnistar telja að verkalýðsflokkur skuli starfa, að hverju og með hvaða skipulagi. Starfshættir verkalýðshreyfingar og hlutverk flokksins voru einnig á dagskrá.

Auk framsögumanna samtakanna, hélt Þorlákur Kristinsson stutta ræðu þar sem hann ræddi aðallega um leiðir til að hressa við andófsstarf í verkalýðshreyfingunni og efla baráttu launafólks. Umræður snérust meira um þessi mál en upphaflegt fundarefni. Fundarmenn voru rúml. 50.

Næsti fundur verður ekki í desember eins og áformað var. Í stað þess verður fundað eftir áramót um íslenska auðvaldsskipulagið, sérkenni og aðalþætti, ásamt annarri hagsmunabaráttu en kjarabaráttu. Fundurinn er að Hótel Heklu (kaffiterían) mánudaginn janúar kl. 20.30.

Efni 1. og 2. fundar mun annað hvort birtast í Verkalýðsblaðinu eða í sérstökum bæklingi.

Framkv.nefnd.



byltingin hefur haldið innreið sína í prentiðnaðinn eins og víðar. Mikið er í húfi að þessari tæknibyltingu verði komið á, án þess að gengið sé í berhögg við hagsmuni vinnandi stétta.

# Prentaradeilan

## Hvaða stefna var mótuð í tæknimálunum?

Eitt þeirra mála sem hvað mesta athygli vöktu í október- og nóvembermánuði sl. var prentaradeilan. Í þeirri deilu var tekist á um hvernig tölvuvæðing í prentiðnaðinum skyldi fara fram og um hvort prentiðnaðarmönnum tækist að ná fram sérkröfum sínum umfram almenna kjarasamninga Alþýðusambandsfélaganna.

Stéttasamvinnan réð ferðinni.

Það er skemmst frá því að segja að í hvorugu þessara mála tókst bókagerðarfélögunum að fá því framgengt sem lagt var af stað með í upphafi.

Baráttustefna og andstaða við stéttasamvinnustefnu forystuklíku Alþýðusambandsins hefur að sönnu verið meiri innan bókagerðarfélaganna á undanförnum árum en flestra annarra stéttarfélaga í landinu. Má hér m.a. nefna að Hið íslenzka prentarafélag var eina stéttarfélag landsins sem lýsti yfir stuðningi við baráttu mjólkurbúðakvenna fyrir nokkrum árum. Fleira mætti nefna þessu til stuðnings.

En forkólfum stéttasamvinnu og undirlægjuháttar innan bókagerðarfélaganna tókst að nýta sér andvaraleysi baráttusinna innan félaganna og spila á annarlega strengi í þessari baráttu.

Tæknimálin í tröllahöndum.

Í upphafi nýlokinna kjarasamninga lögðu félögin undir forystu HÍP af stað með þá kröfu að félagsmenn bókagerðarfélaganna skyldu sitja fyrir um alla vinnu við framleiðslu á prentuðu máli sem unnin er með rafeindatækni. Þessi krafa var í samræmi við kröfugerð erlendra prentarasamtaka sem hafa unnið góða sigra í því máli, svo sem dæmin frá Berlingske Tidende í Danmörku og Times í Bretlandi sýna.

Ekki var annað séð en að full samstaða væri um þessa kröfu og eindreginn vilji hjá öllum félögum sem og forystumönnum að fylgja henni eftir til hins ýtrasta.

20.sept. sprakk hins vegar samstaðan. Meiri hluti stjórnar HÍP í andstöðu við Grafíska sveinafélagið og alla þenkjandi menn innan bókagerðarfélaganna fengu línuna frá atvinnurekendum og vildu ganga til samninga á grundvelli þeirra. Í heilan mánuð stóð baráttan við þá og lauk með sigri þeirra, þar sem þeim tókst að spila á strengi óeiningar milli bókagerðarfélaganna, sem ekki sameinast fyrr en um næstkomandi áramót, og ótta margra félagsmanna bókagerðarfélaganna við harða baráttu til að ná fram kröfugerðinni.

Sá samningur sem þessir menn undirrituðu 23. okt. sl. var í veigamiklum atriðum afturför frá fyrra samkomulagi, þar sem um afsal á réttindum var að ræða, þótt minniháttar breytingar til batnaðar næðust fram s.s. lengingu á vélritunarnámskeiði úr 40 klst í 54 klst.

Það er ljóst að barátta framtíðarinnar (og það er ekki svo langt í þá framtíð) fyrir atvinnuöryggi prentara vegna hinnar nýju rafeindatækni verður mun harðari og erfiðari fyrir vikið - tíminn sem nú gafst var ekki nýttur.

Vaknið baráttumenn.

Niðurstaðan úr átökunum um tæknimálin urðu þau að félög bókagerðarmanna urðu meir og minna vanbúin til baráttu um launakjör og almenn starfskjör. Óeining í forystuliði, hringlandaháttur með verkfallssamþykktir,



upphlaup einstakra hægrisinna innan félaganna sem m.a. tókst að fá margar samþykktir félagsfunda ómerktar af meirihluta stjórnar HÍP ofl. ofl. bar allt að sama brunni. Allur máttur var úr bókagerðarmönnum dreginn og þeir létu sér lynda það sem atvinnurekendum þóknaðist að skammta úr hnefa.

Það er ljóst að baráttusinnar innan bókagerðarfélaganna verða að vakna upp til dáða. Þeir verða að hasla sér völl innan hins nýja Félags bókagerðarmanna og einangra frömuði stéttasamvinnu, undirlægju og sundrungar innan þess. Ef stétt íslenskra bókagerðarmanna á að verða eitthvað til bjargar þá er það samstaða og sóknarkraftur baráttumanna innan raða þeirra.

óhs.